# Dálítil

# Dönsk lestrarbók

með

íslenzkri þýðingu og orða skýringum

ætluð þeim,

sem tilsagnarlaust byrja að læra dönsku.

---

Útgefin af

*Svb. Hallgrímssyni.*



---

Reykjavík.

Prentuð í prentsmiðju Íslands, hjá Einari Þórðarsyni

1853.

# Formáli.

Þegar þess er gætt, hversu lengi vjer, Íslendingar, höfum átt viðskipti við Dani, þá má það þykja furða, að á öllum þeim tíma skuli eigi hafa komið á gang nein sú bók, sem kenndi oss að skilja mál þeirra, fyr enn nú á þessum síðustu tímum, er vjer fengum í höndur hina ágætu „Orðabók Konráðs Gíslasonar“; því „Orðabók Oddsens“ er svo lítil og ódönskuleg, að hún er varla teljandi. Því neitar þó enginn, að þegar tveir hafa mök og mikil viðskipti saman, þá er það einhver hin fyrsta nauðsyn, að þeir skilji hvor annan; og ætla jeg ekki að fara neinum orðum um það hjer, hvort þjóðir þessar báðar jafnt, eða önnur fremur enn hin, hafi haft tjón af því, að þær ekki skildu hvor aðra. Mjer kemur þó til hugar, um leið og jeg rita þetta, hið þjóðlega kvæði vort, Skipafregn; og þó hún sje ekki guðspjall, þá vitna jeg samt til hennar í þessu efni. Trauðlega verður það heldur sagt með sanni, að Íslendingar sjeu svo frábitnir bóknámi, að til einskis hefði verið að selja þeim í höndur nokkra bók, sem kenndi þeim að skilja tungu Dana. Jeg get borið það, síðan jeg kom hingað til bæjarins, að ekki svo fáir leikmenn — helzt efnilegir unglingsmenn úr sveit — hafa lagt mikinn hug á að læra að skilja dönsku; hafa sumir þeirra, sem áttu hjer dvöl, farið þess á leit, að fá hjá mjer tilsögn í henni, en sumir hafa að eins beðið mig, að benda þeim á einhverja bók, sem þeir hægast gætu lært að skilja af málið tilsagnarlaust; og mjer hefur virzt, eins og rannar við er að búast, löngun þessi fara í vöxt. Jeg hef líka áður orðið var við þessa löngun hjá

mönnum, því jeg hef þekkt bændur — og það búsýslumenn, — sem hafa gefið sjer tíma til að lesa í dönskum bókum með þeirri alúð, að þeir að kalla tilsagnar- og hjálparlaust lærðu að skilja málið.

Þessi hrósverða löngun og viðleitni landa minna „að komast ögn niður í dönsku“, eins og þeir kalla, hefur nú komið mjer til þess að gefa út þessa litlu Lestrarbók; jeg ímyndaði mjer, að hún gæti verið þeim eins handhæg og t. a. m. Spurningakverið danska, sem jeg hef einatt verið beðinn að útvega handa þeim, er tilsagnarlaust vildu læra dönsku. Jeg þekki margar lestrarbækur á öðrum málum, líkar þessari, sem hjer kemur nú á gang, en enga að öllu leyti eins; og segi jeg það ekki í þeirri veru, að jeg álíti þessa betri enn allar hinar; en hitt er það, jeg hugsaði, að flestar, ef ekki allar þess konar lestrarbækur í öðrum löndum, er menn skyldu læra af annað tungumál, væru einkum ætlaðar til þess að lesast í skólum, þar sem tilsögn kennarans gæti skýrt það, sem ekki væri nógu ljóst í bókinni sjálfri. Jeg hjelt nú, að ekki mundi alls kostar tjá, að haga lestrarbók fyrir leikmenn á Íslandi á sömu leið, með því að þar var eigi ætíð kostur á „að fara í smiðju“ eins og menn segja; og þess vegna hagaði jeg bók þessari svo, að hún gæti að mestu skýrt sig sjálf; jeg gjörði hana svo auðvelda, sem mjer var unnt og mjer þókti þörf á, þar sem jeg ætlaði hana *þeim einum, sem hugsuðu sjer að fá tilsagnarlaust hinn fyrsta skilning á dönsku máli, eða þá unglingum, sem allra fyrst byrjuðu að læra það með tilsögn.* Verði það álitið að bókin sje nokkru nýt til þessa, þá þykist jeg ekki hafa unnið til ónýtis. Jeg gjöri ekki heldur ráð fyrir, að aðrir enn þeir, sem jeg sagði, hafi gagn af bæklíng þessum í málfræðislegu tilliti; en hitt get jeg ímyndað mjer, að mörgum kunni að þykja ómaksins vert, að lesa yfir efnið sjálft, því jeg vildi ekki velja það af verri endanum.

Lestrarreglurnar í bók þessari eru að mestu teknar úr

„Orðabók Konráðs", þar sem hún gefur ávísun um framburð og hljóð bókstafanna; og jeg held að hver sá Íslendingur, sem kann að stafa rjett í móðurmáli sínu, og hefur nokkra hugmynd um hljóðbreytingar bókstafanna, geti haft gagn af þessum reglum, svo litlar þær eru og mjög svo ónógar til að kenna manni rjett að lesa dönsku. — Um orðaskrána aptan við bókina vil jeg að eins geta þess, að jeg ætlaði svo til, að eigi væri þar að leita að skýringum neinna orða, sem beinlínis eru þýdd í hinum íslenzka texta framar í bókinni, eins og ekki heldur að skýringum þeirra orða, sem eru svo lík sömu orðum í íslenkunni, að jeg áleit auðráðið í þýðingu þeirra; en vera má, að jeg hafi þar eigi verið nógu nærgætinn.

Þar sem nú þetta er hin fyrsta danska lestrarbók fyrir Íslendinga, þá veit jeg vel, að á henni muni sannast „fátæk smíð í fyrsta sinni"! Virði menn samt viðleitni mína, og sætti sig við bæklinginn, meðan ekki býðst annar betri, þó þeir aldrei nema segi um hann, að betra sje að veifa röngu trje enn öngu, þá mun jeg gefa út aðra lestrarbók, ef jeg verð ekki því skammlífari, þeim til frekari framfara, sem hafa lagt sig niður við þessa. Jeg sje nú hvernig þessari reiðir af, og haga mjer eptir því með hina.

Ritað í Reykjavík á jólaföstunni 1852.

*Svb. Hallgrímsson.*

---

# Dálitlar lestrarreglur.

H*in danska tunga er töluð af þegnum Danakonungs, þeim, er kallaðir eru* **Eydanir** *og* **Jótar;** *hún er sprottin af norrænunni, sem töluð var í fyrndinni á Norðurlöndum; þess vegna er hún líkust íslenzkunni og svenskunni, en miklum mun ólíkari þjóðversku, hollenzku og ensku; smátt og smátt hafa unnið hefð í dönsku máli ýms orð úr grísku, látínu og frakknesku.*

*Bókstafirnir í dönskunni eru:*

**a, aa, b, c, d, e, f, g, h, i, j, k, l, m,**
— — be ce de — ef ge haa — jod, je kaa el em
**n, o, p, q, r, ſs, t, u, v, x, y, z, æ, ø.**
en — pe ku er es te — ve eks — zeta — —

*1. Hljóðstafirnir eru:*

a, e, i, o, u, y, æ, aa, ø.

a hljóðar eins og ísl. a og hefur skjótt atkvæði í sumum samstöfum (t. a. m. Stad = borg), en seint í sumum (t. a. m. Stat = ríki).

e er opt borið fram líkt og i á ísl. (t. a. m. Sted = staður) en stundum eins og e (t. a. m. ved = hjá); ee er víða eins og e með seinu atkvæði (t. a. m. Steen = steinn); e á eptir hljóðstaf seinast í samstöfu heyrist opt ekki í fram-

burðinum, með því það er einungis sett til að sýna, að stafurinn fyrir framan það hafi seint atkvæði (t. a. m. gaae lesið go = að ganga).

i er ýmist borið fram eins og ísl. í (t. a. m. min les min = minn) og er þá stundum ritað ii (t. a. m. Viin = vín) eða sem i (t. a. m. finde les finne = að finna).

o er ýmist borið fram líkt og ísl. ó, en þó með nokkru ú-hljóði (t. a. m. Blod = blóð), eða eins og ísl. o (t. a. m. Slot = höll).

u hefur sama atkvæði sem ísl. ú, en sumstaðar skjótt (t. a. m. Bud = boð) sumstaðar seint (t. a. m. Stud = þjór).

y hljóðar ýmist sem ý í nafninu á stafnum (t. a. m. byde = bjóða) eða sem u (t. a. m. Synd = synd).

æ hljóðar eins og ísl. e, og hefur skjótt atkvæði í sumum samstöfum (t. a. m. Værk = verk) en seint í sumum (t. a. m. Væg = veggur).

aa hefur sama atkvæði og ísl. o, skjótt í sumum samstöfum (t. a. m. Aand = andi) seint í sumum (t. a. m. Traad = þráður).

ø hljóðar á sumum stöðum sem ísl. ö (t. a. m. Ørn = örn), en sumstaðar á milli ö og u (t. a. m. Søster = systir).

2. *Tvíhljóðendurnir, þeir er optast koma fyrir í dönskum orðum eru:*

au, ou, ei, øi.

au hljóðar eins og á með nokkru ú-hljóði (t. a. m. slau = daufur).

ou hljóðar eins og o með nokkru ú-hljóði (t. a. m. Toug = strengur).

ei lætur eins og ei (í íslenzka orðinu eiga).

oi lætur eins og au (í orðinu auga).

*3. Samhljóðendur eru:*

b, c, d, f, g, h, j, k, l, m, n, p, q, r, s, t, v, x, z.

b í upphafi orða hefur sama atkvæði og b í ísl. (t. a. m. Baad les bod = bátur), en fyrir aptan hljóðstaf í sama orði hefur það jafnaðarlega líkt atkvæði og v (t. a. m. Skib les skiv = skip).

c hljóðar eins og k í ísl. fyrir framan a, o, u, en eins og s fyrir framan e, æ, i, y (t. a. m. Cujon les kújón = bleyða; Centrum les sentrum = miðpunktur). C á undan samhljóðanda hljóðar eins og k (t. a. m. Cnejus les Knejus, manns nafn). Ch er lesið eins og k (t. a. m. China, les Kina, Kínverjaland).

d samsvarar í upphafi orða d í ísl. (t. a. m. Dag = dagur); en fyrir aptan hljóðstaf er það lint og lætur eins og ð í ísl. (t. a. m. Fod = fótur); eða heyrist jafnvel ekki í framburðinum (t. a. m. Kande les kanne = kanna).

f er borið fram eins og f í upphafi á ísl. orði, þegar það stendur fyrir framan hljóðstaf þeirrar samstöfu, sem það er í (t. a. m. Fader = faðir), en eins og ff, ef það stendur fyrir aptan (t. a. m. traf, les traff = hitti).

g samsvarar í upphafi orða g í ísl. (t. a. m. Gaade = gáta). Aptarlega í orði er það lint og

heyrist varla (t. a. m. Pige les pie = stúlka; Bøger les bøjer = bækur).

h er borið fram eins og h í upphafi á ísl. orðum, nema fyrir framan j og v, því þar heyrist það alls ekki í framburðinum (t. a. m. Hjerte les jerte = hjarta; hvor les vor = hvar).

j hefur sama atkvæði og j á ísl.

k hefur sama atkvæði og k á ísl.

l samsvarar í upphafi orða l í ísl.; ll lætur eins og ll í milla (á upphlut, en ekki eins og ll í öðrum orðum t. a. m. höll, fell).

m samsvarar í upphafi orða m í ísl., en í niðurlagi orðs mm (t. a. m. Dom les domm = dómur).

n hefur sama atkvæði og n á ísl.; nn lætur eins og nn í kunna (en ekki eins og nn í steinn).

p hefur sama atkvæði og p á ísl. og er jafnhart og ella, fyrir framan s (en verður ekki lint, eins og á ísl., þar sem títt er að kveða að ps eins og fs).

q hljóðar eins og k, og er að eins haft á undan v (t. a. m. Qvinde les kvinne = kona).

r hefur linara eða óskýrra atkvæði en ísl. r.

s hefur sama atkvæði sem s á ísl.

t hefur sama atkvæði sem t á ísl.

v hefur sama atkvæði og ísl. v

x hljóðar eins og ks.

z það er vant að hljóða í framburði Dana eins og s.

# Tankesprog og Leveregler.
# Spakmæli og heilræði.

1. Den som ikke vil arbeide, bør ei heller spise. — Sá sem ekki vill vinna, á ekki heldur að fá mat.

2. Hvad du ikke kan betale med Penge, betal det i det mindste med Tak. — það sem þú eigi getur borgað með peningum, borgaðu það að minnsta kosti með þökkum.

3. Hvad jeg ikke forstaaer, det kan jeg hverken dadle eller rose. — það sem jeg skil ekki, það get jeg hvorki lastað eða lofað.

4. Den som engang har løjet, ham troer man ikke lettelig en anden Gang — Sá sem einu sinni hefur logið, honum trúir maður ekki hæglega öðru sinni.

5. Hvad man engang har lovet, det bør man holde, ellers kaldes man en Bedrager. — það sem maður hefur einn sinni lofað, það á maður að efna, annars heitir maður svikari.

6. Den, som ikke vil blive fattig, maa ikke bortkaste Smaating. — Sá sem ekki vill verða fátækur, má ekki kasta burt smámunum.

7. Det er for sildigt at angre i Alderdommen, intet at have lært i Ungdommen. — það er of seint að iðrast í ellinni, að hafa ekkert lært í æskunni.

8. At gaae tidligt tilsengs og staae tidligt op, gjør Mennesket sundt, rigt og klogt. — Að ganga snemma til rekkju og rísa árla upp, gjörir manninn heilsugóðan, ríkan og hygginn.

9. Den som engang bedrager dig, gjør dig Uret; bebedrager han dig anden Gang, gjør han Ret. — Sá sem svíkur þig einu sinni, gjörir þjer rangt; svíki hann þig öðru sinni, gjörir hann rjett.

10. Hvo som kaster Skarn paa Andre, smudser sig

selv mest. — Hver sem kastar saur í aðra, atar sjálfan sig mest.

11. Vi skulle spise for at leve; men ikke leve for at spise. — Vjer eigum að borða til að lifa; en ekki lifa til að borða.

12. Gudsfrygt er nyttig til alle Ting, til Trøst i Ulykken, Forsigtighed i Lykken og Rolighed i Doden. — Guðhræðsla er nytsamleg til allra hluta, til huggunar í mótlæti, varkárni í meðlæti og rósemi í dauðanum

13. Det bedste Middel til ikke at begaae nogen Feil, er at undgaae Leiligheden dertil. — Hið bezta meðal til að fremja ekki neina yfirsjón, er að sneiða hjá tækifærinu til þess.

14. Sæt dig stedse i dens Sted, som du agter at gjøre Uret, og du vil da aldrig fornærme nogen. — Settu þig ætíð í þess spor, sem þú ætlar að gjöra rangt, og þú munt þá aldrei meiða neinn.

15. En retskaffen Mand maa holde sit Ord, og derfor aldrig love noget, han ikke har isinde at holde. — Ráðvandur maður verður að efna orð sín, og þess vegna aldrei lofa neinu, sem hann ekki hefur í huga að efna.

16. Den Glæde at hævne sig er ikke saa stor som den at tilgive. — Sú gleði að hefna sín er ekki eins mikil og sú að fyrirgefa.

17. Vil du hævne dig paa din Fjende, saa gjør det ved en ulastelig Opførsel. — Viljir þú hefna þín á óvin þínum, þá gjörðu það með flekklausri breytni.

18. Vi skulle leve saaledes, som om hele Verden saae os, og tænke, som om ethvert Menneske kunde læse i vore Hjerter. — Vjer eigum að breyta þannig, eins og öll veröldin sæi til vor, og hugsa, eins og sjerhver maður gæti lesið inn í hjörtu vor.

19. Bevidsthed om vor Styrke kan let lede til Hovmod, og fra Hovmod til Fald er kun et Skridt. —

Meðvitund um styrkleika vorn getur hæglega leitt til dramblætis, og frá drambsemi til hrösunar er einungis eitt fótmál.

20. Den, som intet samler om Sommeren, har intet at spise om Vinteren; og den som i Ungdommen intet lærer, maa lide Mangel i Alderdommen. — Sá sem engu safnar á sumrin, hefur ekkert að borða að vetrinum; og sá sem lærir ekkert í æskunni, verður að þola skort í elliuni.

21. Ikke alt er sundt, som smager godt; og ikke alle Frugter ere velsmagende, som have et skjønt Udseende. — Ekki er allt heilnæmt, sem bragðar vel; og ekki eru öll aldini ljúffeng, sem hafa fallegt útlit.

22. Den som ikke vil stode sig, maa ikke gaae i Mørke. — Sá sem ekki vill reka sig á, má ekki ganga í myrkri.

23. Søg ikke Faren, for at du ikke skal omkomme deri; men gaae den modig imøde, hvor du ikke kan undgaae den. — Leitaðu ekki hættunnar, svo að þú eigi farizt í henni; en gakk hugaður á móti henni, þar sem þú getur ekki sneitt hjá henni.

24. Livets Lykke er ikke bunden til Rigdomme; man lever fornøjet med lidet, naar man er maadeholdén og forstaaer at indskrænke sine Lyster. — Gæfa lífsins er ekki bundin við auðæfi; maður lifir ánægður með lítið, þegar hann er hófsamur og hefur vit á að temja girndir sínar.

25. Kun den Tilfredse er rig; men den Gjerrige ulykkelig, fordi han aldrig kan være tilfreds. — Einungis hinn ánægði er ríkur; en hinn ágjarni vesæll, af því hann getur aldrei verid ánægður.

26. Gnieren har aldrig nok; han er karrig imod andre og sulter sig selv, naar han ikke kan nyde Livets Goder for intet. — Nirfillinn hefur aldrei nóg; hann er nískur við aðra og sveltir sjálfan sig, þegar hann ekki getur notið gæða lífsins fyrir ekkert.

27. Han tænker aldrig paa Fremtiden uden Ængstelse, og for ikke at lide Mangel paa sine gamle Dage, lider han Mangel sin hele Levetid. — Hann hugsar aldrei

um ókominn tíma án kvíða, og til þess að líða ekki skort í ellinni, líður hann skort alla sína æfi.

28. Menneske, vogt dig da for Gjerrighed. Stræb kun at forøge din Formue paa en tilladelig Maade; vær den flittige Arbeider og den gode Huusholder. — Maður, gættu þín þá fyrir ágirnd. Kappkostaðu einungis að auka efni þín með leyfilegu móti; vertu iðinn verkmaður og góður búmaður.

29. Korte ere vor Samvandrings Dage her paa Jorden. See til at du ikke selv forbittrer dig dem ved Vrede og Overilelse. — Stuttir eru vorir samferðar dagar hjer á jörðunni. Sjáðu um, að þú ekki beiskir þjer þá sjálfur með reiði og framhleypni.

30. Søg at overvinde din Fiende ved Høimodighed, ved at blive hans Hjælper og Velgjører, hvor han behøver Hjælp. — Leitastu við að sigra óvin þinn með göfuglyndi, með því að verða hjálpari hans og velgjörðamaður, þar sem hann þarf hjálpar við.

31. Den der mangler en Ven, vandrer som en Fremmed over Jorden. — Sá sem vantar vin, fer leiðar sinnar á jörðunni, eins og útlendingur.

32. Trofast Venskab ligner Aftenskyggen, det vorer indtil Livets Sol gaaer ned. — Tryggföst vinátta líkist skugganum á kvöldin, hún vex uns sól lífsins gengur til viðar.

33. Kun de fattige, som eje lidet eller intet, er det forundt at nyde Venskabs Lykke i fuldt Maal. — Einungis hinum fátæku, sem eiga lítið eða ekkert, er unut að njóta gæfu vináttunnar í fullum mæli.

34. Brustent Venskab er en brusten Livstraad. Har du fundet en Ven, saa hold ham fast med inderlig Omhu, thi du træffer ikke saa let en anden, der bliver det samme for dig, som hiin var. — Brostin vinátta er brostinn lífsþráður. Hafir þú fundið vin, þá haltu honum fast með nákvæmri umhyggju, því þú hittir ekki svo hæglega annan, sem gengur þjer í hins stað.

35. Pryd hver en Dag, der gaaer, med en dydig Handling, da ville dine Glæder aldrig faae Ende. — Prýddu sjerhvern dag, sem líður, með dygðugri athöfn, þá munu unaðsemdir þínar aldrei taka enda.

36. Nyd, saa ofte du kan, den rene guddommelige Fryd, at gjøre andre glade og lykkelige. — Njóttu svo opt sem þú getur þess hreina guðdómlega fagnaðar, að gleðja og farsæla aðra.

37. Lad ikke dit Mod synke, naar du seer, at dine Omstændigheder forværres, og din Velstand formindskes, uden at du er Skyld deri. — Láttu ekki hugann falla, þegar þú sjerð, að kringumstæður þínar vesna og velmegun þín minkar, án þess að þú sjert orsök í því.

38. Fordobl din Arbeidsomhed, thi Himlen velsigner den Flittige. Fordobl din Paapassenhed, saavel for at holde sammen paa det lidet, du ejer, som for at lægge noget til af det, du forhverver. — Tvöfaldaðu starfsemi þína, því himininn blessar hinn iðjusama. Tvöfaldaðu umhyggjusemi þína, bæði til að hirða um hið litla, sem þú átt, og til að bæta nokkru við af því, sem þú aflar.

39. Tag imod Trang med en urokkelig Tillid til Guds Viisdom og Godhed, ja tag imod den med Taknemmelighed. Kan din Tro hæve dig til Gud, saa vil din Rolighed og Frimodighed aldrig aflade. — Taktu á móti fátækt með óbifanlegu trausti á speki og gæzku guðs, já, taktu á móti henni með þakklæti. Geti trú þín hafið þig til guðs, þá mun rósemi þín og glaðværð aldrei linna.

40. Hig ikke efter Rigdom! Den udsætter dig for Misundelse, fører til Vellevnet og Lediggang, sløver Aanden og køler Hjertet. — Sækstu ekki eptir auðlegð! Hún bakar þjer öfund, leiðir til bílífis og iðjuleysis, sljófgar andann og kælir hjartað.

41. Betragt dine Skatte som et Laan, der kom fra Alherrens Haand, som et Middel til at fremme din egen og Andres Fuldkommenhed og Lyksalighed. —

Skoðaðu fjársjóði þína eins og lánsfje, sem komið er frá hendi drottins allsherjar, eins og meðal til að efla þína eigin og annara fullkomnun og farsæld.

42. Da doer du engang med den Bevidsthed, som forsøder Dødens Beeskhed: Jeg har ei levet forgjeves; mine Gjerninger ville tale for mig. — Þá deyr þú á síðan með þeirri meðvitund, sem sykrar beiskju dauðans: Jeg hef eigi lifað til ónýtis; verk mín munu tala máli mínu.

43. Den dydige Hedning, den retskafne Jøde er agtværdigere og Gud behageligere, end en Christen, som overgiver sig til Laster. — Hinn dygðugi heiðingi, hinn ráðvandi Gyðingur er virðingarverðari og guði þóknanlegri, enn sá hinn kristni, sem ofurselur sig löstum.

44. Vær først retfærdig imod andre, og saa dig selv nærmest; det vil sige, gjør først imod andre hvad de have Ret til at fordre og vente af dig, og gjør dernæst hvad der tjener til dit eget Gavn. — Vertu fyrst rjettlátur við aðra, og svo sjálfum þjer næstur; það er að segja, gjörðu fyrst við aðra það sem þeir hafa rjett til að heimta og vænta af þjer, og gjörðu svo það sem miðar þjer sjálfum til gagns.

45. En god og glædelig Bevidsthed er en Himmel i dit Hjerte. Den hjemler dig et Herredømme over de Onde, og tjener dig som Sværanker i Stormen. — Góð og glöð meðvitund er himnaríki í hjarta þínu. Hún heimilar þjer vald yfir hinum vondu, og reynist þjer eins og stórakkeri í stórviðrinu.

46. Den fortærer din Kummer, som Solen tøer Isen. Den er en Brønd, naar du tørster, en Staf, naar du segner, en Skjærm imod Solens Stik, en Hovedpude, hvorpaa du finder Ro og Lise i din Dodstund. — Hún eyðir harmi þínum, eins og sólin þýðir ísinn. Hún er brunnur, þegar þig þyrstir, stafur, þegar þú hnígur niður, hlíf á móti brunahita sólarinnar, koddi, á hverjum þú finnur rósemi og hugsvölun á þinni andlátsstundu.

47. Samvittigheden er vor Lærer! Den siger endogsaa den Uvidende hvad han bør gjøre, og Ingen tør undskylde sig med, at han ei har vidst hvad der var Ret eller Uret. — Samvizkan er vor kennari! Hún segir jafnvel líka hinum fáfróða hvað hann á að gjöra, og enginn maður dirfist að afsaka sig með því, að hann hafi eigi vitað hvað var rjett eða rangt.

48. Giv med Glæde, naar du giver. Grunder du længe paa, hvormeget du skal give, da kommer Gaven ikke fra Hjertet, men fra Forstanden. — Gefðu með gleði, þegar þú gefur. Veltir þú lengi fyrir þjer, hversu mikið þú eigir að gefa, þá kemur gjöfin ekki frá hjartanu, heldur frá hyggjuvitinu.

49. Vil du, at dit Barn skal føle Ærbødighed for Gud og Religionen, lad det da see Religion og Gudfrygtighed i dine egne Ord og Gjerninger. — Ef þú vilt að barn þitt skuli finna til lotningar fyrir guði og trúarbrögðunum, þá láttu það sjá trú og guðsótta í orðum og verkum sjálfs þíns.

50. Vælg dig kun saadanne Venner, som ved deres Tænkemaade forbedre din: thi en Ven, der ikke i mange Stykker er bedre end du, standser dig i Løbet til Fuldkommenhed. — Veldu þjer einungis þá fyrir vini, sem með hugarfari sínu bæta hugarfar þitt; því sá vinur, sem ekki er í mörgum greinum betri enn þú, tefur fyrir þjer að skunda til fullkomnunar.

51. Et følende Hjerte er den bedste Rigdom. Hvem der mangler det, han seer forgjeves alle Naturens Yndigheder blomstre, og vansmægter af Tørst ved den klareste Kilde. — Viðkvæmt hjarta er bezta auðlegð. Hvern sem vantar það, hann horfir til einskis á allar unaðsemdir náttúrunnar í blóma þeirra, og vanmegnast af þorsta við tærustu uppsprettu.

52. Velgjorenhed er kun sand Dyd, naar Driften dertil udspringer af inderlig Deeltagelse i de Ulykkeliges

Skjebne. — Góðgjörðasemi er þá að eins sönn dygð, þegar hvötin til hennar sprettur af innilegri hluttekningu í kjörum hinna bágstöddu.

53. Ær dine Forældre og lyd dem i din Ungdom. De gav dig Livet, de gav dig Brød og dertil Fryd og Glæde, da du endnu ikke kunde give dem andet end Angest og Bekymring. — Heiðraðu foreldra þína og hlýddu þeim í æsku þinni. Þeir gáfu þjer lífið, þeir gáfu þjer brauð, og þar að auki fögnuð og gleði, meðan þú gazt ekki látið þeim annað í tje enn angist og áhyggju.

54. Den der af Hjertet ærer sin Fader, den der af Hjertet elsker sin Moder, den er i Stand til alt, hvad der er Godt og Stort. Denne Ærefrygt er den barnlige Uskyldigheds mægtige Skytsengel, og den jernstærke Stav, hvorved selv den Faldne atter reiser sig. — Sá sem af hjarta heiðrar föður sinn, sá sem af hjarta elskar móður sína, hann er fær um alt, sem er gott og mikið. Þessi virðing er voldugur verndarengill hins barnlega sakleysis, og sá hinn járnsterki stafur, er jafnvel hinn hrasaði stendur aptur á fætur með.

55. Du kæmper, o Menneske, og higer efter det Bedre og strider imod Begivenhedernes Strøm; men Livets Bølger tørne haardt imod dig, og bryde ofte kun for tidlig din Kraft. — Þú stritar, maður, og sækist eptir hinu betra og berst á móti straumi atburðanna; en öldur lífsins skella hart á þjer, og lama því miður opt of fljótt afl þitt.

56. Du har din Villje, din Klogskab, dine Kræfter, men den Højeste har Omstændighederne i sin Magt; ved disse regjerer han Menneskene, velsigner eller tilintetgjør deres Gjerning. — Þú hefur vilja þinn, hyggindi þín, krapta þína, en hinn æðsti hefur kringumstæðurnar í sínu valdi; með þeim stjórnar hann mönnunum, blessar eða ónýtir verk þeirra.

57. Et godt Navn efter Døden er det kosteligste Arvegods, som du kan efterlade dine Børn og Efterkommere. Et ulykkeligt Tilfælde kan rove dem det timelige

Gods, som du sammensparede til dem. — Góður orðstýr eptir dauðann er hin dýrmætasta arfleifð, sem þú getur eptirskilið börnum þínum og niðjum. Eitt óhappa tilfelli getur svipt þá hinum jarðnesku fjármunum, sem þú treindir handa þeim.

58. Jo ældre vi blive, jo kortere finde vi Aarene. Ligesom Steenen, der ruller ned ad Bakke, farer afsted med forøget Hastighed, jo dybere den kommer ned; saaledes rinder Livet hurtigere, jo længere det fjerner sig fra Barndommen og iler afsted imod Alderdommen og Graven. — Því eldri vjer verðum, þess styttri finnast árin oss. Eins og steinninn, sem veltur niður eptir brekku, flegist áfram með því meiri hraða, því neðar sem hann kemur, eins líður lífið því fljótar, því meir sem það fjarlægist æskuna og skundar til móts við ellina og gröfina.

59. Vær overbeviist om, at hvad der virkelig gavner dig eller Menneskeheden, det modnes, om end seent, saa dog sikkert, saafremt du ikke lægger Hænderne i Skjødet, men uafladelig og freidig virker derfor efter bedste Evne! — Vertu viss um, að það sem í raun og veru gagnar sjálfum þjer eða mannkyninu, það þroskast, enda þótt seint, þá samt áreiðanlega, svo framarlega sem þú ekki leggur höndurnar í kjöltuna, heldur starfar óaflátanlega og örugglega að því af fremsta megni.

60. Menneske, vil du opfylde din Bestemmelse, saa lad Tidens Fugleflugt stedse minde dig om, i Tide at handle viselig, at du ei skal nages af Anger, naar det er for silde. — Maðnr, ef þú vilt fullnægja ákvörðun þinni, þá láttu vængjaflug tímans ávallt minna þig á að breyta skynsamlega í tíma, svo þú ekki þurfir að kveljast af angri, þegar það er um seinan.

---

Hvad du vil, at Andre skulle gjøre imod dig, gjør det ogsaa imod dem.

Den, som graver en Grav for en Anden, er værd, at han selv falder i den.

Fei først reent for din egen Dør, førend du gaaer for din Naboes.

Den, som har meget, bør give meget; og den, som kan meget, bør gjøre meget.

Det Brød, jeg vil spise, kommer ikke til mig, men jeg maa hente det.

Hvad jeg kan gjøre idag, vil jeg ikke opsætte til imorgen; thi jeg veed ikke, om jeg lever imorgen.

Den som idag er riig, kan imorgen være fattig; og den som idag er sund, kan næste Dag være død.

Saa ofte du leer, saa tænk, at du maaskee snart faaer Anledning til at græde.

Den som har en ond Samvittighed, kan ikke see ærlige Folk stivt i Dinene.

Bedre er et Stykke tørt Brød med Fred, end de lækkreste Retter med Kiv og Trætte.

Ikke at vide noget, er ingen Skam; men ikke at ville lære, er Skam.

Fattigdom er ingen Skam; men Ufornuftighed og slette Sæder ere det.

Guld og Perler ere en skjøn Prydelse; men Forstand og Dyd ere endnu skjønnere.

Penge og Gods kunne berøves mig; men Konst og Videnskab ikke.

En fuld Kiste er vel god; men en sund Mave endnu bedre.

Lykkelig er du, naar andre Menneskers Feil gjør dig klog.

Mangt et Æble har et meget skjøn Udvortes, og er dog indvendig maaskee ormstukket.

Troe ikke alle Folk, som rose dig; thi de tale ofte anderledes, end de mene.

Den, som kun elsker mig, saalænge det gaaer mig vel, han er ikke min Ven.

Fuglen kjender man paa Sangen, og Mennesket paa hans Tale.

Overlæg en Ting, førend du begynder derpaa; thi gjort Gjerning staaer ikke til at ændre.

Hvor man engang har brændt sine Fingre, der griber man ikke til igjen.

Af to gode Ting maae man vælge den bedste; og af to onde den mindst skadelige.

Det, man i Ungdommen nemmer, man i Alderdommen ikke glemmer.

Naar et Træ først er blevet gammelt og tykt, lader det sig ikke bøie.

Den som stjæler en Kalv, stjæler ogsaa en Koe; og af en Lækkertand bliver let en Tyv.

Fuglen kan ikke flyve, forend Fjerene ere udvoxne.

Den Flittige falder intet for tungt; men for den Dovne vejer enhver Fjer et Pund.

Ved alt hvad du gjør, tænk paa Enden; saa vil du aldrig gjøre Ondt.

Den som ikke vil besudles, maa ikke gaae derhen, hvor der er Beeg og Skarn.

Sundhed er den jordiske Lyksaligheds uskatteerligste Gode; ingen foretrækker Krone og Scepter for den.

Det er ikke nok at tjene sine Venner; men det maa skee med Velvillje.

En Daare gjor enten slet intet, eller det han gjør, urigtigt, eller ikke det, han skulle gjøre.

Kast ingen Time bort; thi Livet bestaaer af Timer.

Bestræb dig for hellere at leve et retskaffent Liv, end et langt Liv.

Det er Begyndelsen til Visdom, at man gjerne hører den, og elsker Klogskaben højere end alle andre Goder.

Beslit dig stedse paa Orden; thi ved den sparer du megen Tid og Moje, og mange Fortrædeligheder.

Sky forsigtigt de farlige Steder, og troe dig ikke sikker for Synden.

Usandhed er en Snebold; jo mere man vælter den, jo større bliver den.

Velvillje er Selskabets største Pryd, og den korteste Vei til at vinde Menneskenes Venskab.

Intet Menneske er saa ubetydeligt, at han jo kan skade dig; vær derfor ikke ligegyldig imod et Fjendskab, som du kan undgaae.

Naar dit Arbeide ikke strax vil lykkes, skal du ikke blive utilfreds; thi endnu har Ingen gjort noget godt, uden først at have gjort det slet.

At tale meget og godt er sjeldent forenet; det er derfor bedre at sige meget med faa Ord, end lidet med mange.

At kunne styre sig selv og være Herre over sine Lidenskaber, røber en stor Sjel.

En gylden Tomme gjør ikke Hesten bedre, ligesaalidt som en kostbar Klædning gjør Daaren klog.

Naar man vil noget, som Andre ikke ville, eller omvendt, uden at have grundet Aarsag dertil, er man egensindig.

Den, som forlanger Agtelse, fordi han er riig, forlanger med samme Ret, at man skal ære Bjerget, der indeslutter Guld.

Hvad du gjør, gjør det rigtigt; taler du med nogen, saa tænk paa hvad du hører; læser du, saa prøv hvad du læser.

Lee den Stolte ud, der skammer sig ved sine Taarer. Kun de uophørlige Taarer fortjene vor Skamrødme.

Den, som er stolt ag hovmodig imod dem, han anseer slettere, end sig selv, er sikkert krybende og slavisk imod dem, der ere over ham.

Et slet Menneske, som fortrædiger en Forældreløs, er ligesom Een, der vil bestorme Himmelen, eller som en Hvirvelvind, der løfter Sandet i Luften, men dog altid igjen maa lade det falde.

Hvo, som har et reent Hjerte, og er Herre over sig selv, ligner et klart Speil, som intet Stov fordunkler.

De Mennesker, der ere bundne til deres Huse og Koner, ere ligesom i et snevert Fængsel; naar Befrielses-Tiden kommer, ængstes de ved at forlade det.

De som overlade sig til deres Lidenskaber, ere som

et Menneske, der gaaer med Fakkel imod Vinden, i bestandig Frygt og Fare for at skade sig.

Et Menneske, der vil bekæmpe sine Lidenskaber, er ligesom omgiven med Straa, der har fænget Ild; kun hurtig Flugt kan redde ham.

Det retskafneste Forsæt er stedse det klogeste. Der er ingen sikkrere Vei til Lykken end Dydens og Fromhedens. Naar man da opnaaer den paa denne Vei, er den varigere og behageligere; forfeiler man den, ville de altid holde os skadesløse.

Reenlighed er ikke blot nyttig, men og nodvendig; foruden at den befordrer Sundheden, er den en Deel af Velanstændigheden; derfor er det ikke tilladt noget ordentligt Menneske at forsomme den.

Synden hos et Menneske, som ikke angrer den, og ydmyger sig, er ligesom et Vand, der falder draabeviis, men ubemærket bliver til en stor So. En Synder derimod, som føler Anger, er som en Syg, Sveden efterhaanden hjelper til Helbredelse.

Tro ikke at den, der taler meget om Retten og roser sig af at overholde den, ogsaa opfylder det; men Den, som tier dermed, og gjor det hemmeligt, han er den rette Retfærdigheds Udøver.

Det er tungt for Mennesket: ikke at overlade sig til sine Lidenskaber; ikke at begjære Andres Gods; taalmodigt at lide Uret; at undertrykke dets Hovmod og Ærgjerrighed; ikke at ringeagte det, de ei forstaae; ikke at lyve; stedse at have en fuldkommen Sjels-Rolighed og at følge gode Exempler.

## Guds Forsyn.

Forlad dig ved hvert Fodesjed paa Gud. Den Aand, der vaager over Alt, vil ogsaa vaage over dig.

Den, hvis Viisdom og Godhed kundgjør sig allevegne i saa øiensynlige Spor, vil ikke lade Noget skee, som ei skal ende ham til Ære og hans Skabninger til Gavn.

Slaa din Lid til ham, som styrer Alt til det Bedste, og styrk dit Hjerte ved denne Tillid.

Thi vid, du Retskafne! at før skulle Bjerge kløve sig og rivende Elve lukke sig til din Frelse, ja, Ravne skulle føde dig, forend han forlader dig.

Vov dig iblandt Løver med ham og med Troen paa ham; gaa i Ilden, træd ind iblandt dine Fiender, og vær vis paa hans Beskyttelse!

Han, der skabte din Aand og dannede dit Legeme, der gav dig Jorden til Bolig og gjorde Dyret, Fisken og Fuglen til din Undersaat, der bød Marken grønnes og Frugten modnes til din Næring;

Han, der beskyttede din Barndom, indgød dig Mod i din Manddom og er din Støtte i din Alderdom;

Han, mod hvis Godhed Himlen er et Punkt og Havet er en Draabe — tillader ei din Undergang.

## Lystige Fortællinger.

1.

En Tosse, som kjendte to Brodre, fik at vide, at en af dem var død. Da han nogen Tid derpaa mødte den Efterlevende, sagde han til ham: hør! jeg ved nok, at en af eder døde, men jeg husker ikke rigtig, om det var dig eller din Broder.

2.

En Herre kaldte paa sin Tjener og befalede ham at tage den Bunke Breve, som laae paa Bordet, og brænde dem; men Tjeneren bad, om han ikke maatte skaane nogle af dem og beholde dem til sig selv. Da Herren meget forundret spurgte, hvad han vilde have dem til, sagde han: da jeg tog hjemme fra, saa bad mine Søstre mig, at jeg skulde skikke dem et Brev engang imellem. Nu tænkte jeg som saa: Herren bruger dem ikke mere, og de ere dog ganske nye og pæne endnu; jeg kunde da efterhaanden skikke dem til mine Søstre, siden de saa gjerne vil have et Brev fra mig.

3.

En Handelsbetjent, som i mange Aar havde skrevet sin Principals Breve, var just en Postdag staaet op fra Skriverbordet, da hans Medtjener kom løbendes og fortalte, at Kjøbmanden, deres Herre, var pludselig død af et Slag. Da han nu indsaae, at dette strax maatte meldes til Handelsvennerne, men han tillige var vant at skrive Brevene i sin Herres Navn, saa tilføiede han i Enden af alle Brevene disse Ord: Sluttelig undlader jeg ikke at melde Dem, at det for en halv Time siden har behaget den alvise Gud, at bortkalde mig fra denne Verden ved et pludseligt Slagtilfælde.

## Hlæilegar frásögur.

### 1.

Anli nokknr, sem þekkti tvo bræður, fekk að vita, að annar þeirra væri dauðnr. Þegar hann nokkrum tíma síðar mætti þeim, sem var á lífi, sagði hann við hann: heyrðu! jeg veit að sönnu, að annar ykkar deyði, en jeg man ekki rjett, hvort það var þú, eða bróðir þinn.

### 2.

Húsbondi nokkur kallaði á þjón sinn, og skipaði honnm að taka brjefa hrúguna, sem là á borðinn, og brenna þau; en þjóninn mæltist til, hvort hann ekki mætti hlífa nokkrum af þeim, og hafa þau handa sjálfum sjer. Þegar hússbóndinn, sem það furðaði mjög, spurði hvað hann ætlaði að gjöra við þau, sagði hann: þegar jeg fór að heiman, þá báðu systur mínar mig, að jeg skyldi senda þeim brjef við og við. Nú hugsaði jeg á þá leið: hússbóndinn gjörir ekki neitt við þau framar, og þau eru þó enn öldungis ný og þokkaleg; jeg gæti þá smátt og smátt sent þau til systra minna, fyrst þær vilja svo feignar fá brjef frá mjer.

### 3.

Verzlunarþjón nokkur, sem í mörg ár hafði skrifað brjef hússbónda síns, var ný staðinn npp frá skrifborðinu, einn dag sem póstur átti að fara, þegar samþjón hans kom hlaupandi og sagði, að kaupmaðurinn, hússbóndi þeirra, hefði snögglega dáið úr slagi. Þar eð hann nú sá, að þetta hlaut þegar að boðast skiptavinum hans, en var annars vanur að rita brjefin í nafni hússbónda síns, þá bætti hann þessum orðnm við í endann á öllum brjefunnm: að endíngu læt jeg eigi hjá líða, að tjá yður, að fyrir hálfri stundu þóknaðist alvísum guði að kalla mig burt úr heimi þessum með snögglegri niðurfallssýki.

4.

I en lille fransk Bye faldt en Kone, som længe havde været sengeliggende, i Sovesyge. Manden og de, der vare omkring hende, ansaae hende for død. Efter Skik og Brug blandt Stedets fattige Folk indviklede man hende blot i et Lagen, og bar hende til Jorden. Men paa Vejen til Graven kom de, der bare hende, tæt forbi en Tornebusk; Tornene stak hende, og hun vaagnede af Sovesygen. Fjorten Aar derefter døde hun virkelig; idetmindste troede man det. Man bar hende nu atter til Jorden, og da man nærmede sig samme Tornebusk, begyndte Manden at raabe: gaae forsigtig, kom ikke Hækken for nær!

5.

En Læge, der var meget udmærket i sin Kunst, men tillige en stor Ven af Penge, besøgte en Dag en Philosoph, som nylig var kommen op af en farlig Sygdom. Han fandt Viismanden ifærd med en Ragout. Hvad gjør De der? udbrød Lægen, slige Retter ere en Gift, endog for dem, der nyde den bedste Helbred. De har Ret i hvad De siger, sagde Philosophen: jeg skal føre mig Deres Ord til Nytte. Men apropos, hvor meget er jeg Dem skyldig for de Besøg, De under min Sygdom har aflagt hos mig? Lægen forlangte en meget betydelig Sum. Philosophen optællede Pengene, og overrakte ham dem med disse Ord: De skaaner ikke de stakkels Syge, der søge sin Tilflugt til Dem; tag Dem i Agt for Deres Sygdom, den er ligsaa alvorlig som min: Rigdomme ere for Sjælen hvad Ragouts ere for Legemet.

6.

En Blind vandrede i belmørk Nat paa Gaden

4.

Í dálitlum frakkneskum bæ fjell kona nokkur, sem lengi hafði legið rúmföst, í svefnsýki. Maður hennar og þeir sem hjá henni voru, hjeldu hún væri dauð. Eins og siður var og tíðkanlegt hjá fátæklingum þar, vöfðu menn hana einungis innan í línlak og báru til greptrunar. En á leiðinni til grafarinnar gengu þeir, sem báru hana, rjett fram hjá þyrnirunna; þyrnarnir stungust í hana, og hún vaknaði af svefnsýkinni. Fjórtán árum síðar dó hún í raun og veru; að minnsta kosti hugsuðu menn það. Menn báru hana þá aptur til grafar, og þegar þeir nálguðust sama þyrnirunnann, hóf maður hennar að kalla: farið varlega, gangið ekki of nærri limgarðinum.

5.

Læknir nokkur, sem var mjög ágætur í íþrótt sinni, en jafnframt mjög fjegjarn maður, vitjaði einn dag um heimspeking, sem nýlega var staðinn upp úr hættulegum sjúkdómi. Hann sókti svo að spekingnum, að hann sat að kjötkrás. Hvað eruð þjer nú að gjöra? kallaði lækninn, slíkir rjettir eru eitur, jafnvel fyrir þá, sem hafa beztu heilsu. Þjer hafið satt að mæla, sagði heimspekingurinn; jeg skal færa mjer orð yðar í nyt. En vel á minnst, hvað er jeg yður mikið skuldugur fyrir vitjunarferðir þær, sem þjer hafið gjört yður til mín, meðan jeg var sjúkur? Lækninn vildi hafa mjög mikið fje. Heimspekingurinn taldi fram peningana, og fjekk honnm þá með þessum orðum: þjer vægið ekki veslings sjúklingunum, sem leita líknar hjá yður; hafið gát á yður fyrir sjúkdómi yðar, það kveður allt eins mikið að honum og mínum: auður er það fyrir sálina, sem kjötkrásir eru fyrir líkamann.

6.

Maður nokkur blindur gekk um stræti koldimma nótt

